ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST !

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

MÁLGAGN
EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (MARX – LENÍNISTA)

2. TBL. 1. ÁRG., JÚNÍ 1975

INNI Í BLAÐINU:



BARÁTTU
Gegn stéttasamvinnu
og kjaraárásum !





Lifi frjálst S-Vietnam !



Lifi frjáls Kambódia !



VERKALÝÐSBLAÐIÐ

MÁLGAGN EIK(m-l)

ÚTG.: Október forlagið
PÓSTHÓLF 541, AKUREYRI.

VERÐ:
LAUSASALA KR. 50-,
ÁRSÁSKRIFT KR. 250-

ÁBYRGÐARMAÐUR: Albert Einarsson



# LEIÐARI

## samningarnir

Við undirritun síðustu kjarasamninga beið verkalýðsstéttin einn stærsta ósigur í kjarabaráttunni, sem um getur síðustu árin. Í fyrstu fór sjálfskipuð nefnd A.S.Í. fram á 39% kauphækkun, miðað við 6. taxta Dagsbrúnar, og vísitölubindingu. Þótt þessi kauphækkun hefði ekki nægt til þess að vinna upp þær kjaraskerðingar, sem verkalýðurinn hefir orðið fyrir sl. misseri, voru þessar kröfur samt furðu róttækar miðað við linkind þá, sem forystan hefir sýnt áður. En ástæðan fyrir þessu róttæka andliti skildist þegar samningarnir komu fram í dagsljósið. Það er auðvitað hægur vandi að setja fram háar kröfur þegar aldrei er ætlunin að reyna að ná þeim fram og þær gegna fyrst og fremst þeim tilgangi að sefa vaxandi óánægju alþýðunnar.

Sjaldan eða aldrei í sögu íslenskrar verkalýðshreyfingar hafa endanlegir samningar verið svo fjærri upphaflegri kröfugerð. Samið var um 11,6% hækkun nú þegar og 4,3% þann 1. október. Í stað vísitölubindingar, sem forystan hafði í upphafi lagt mikla áherslu á, eru tekin gild loforð frá Geir Hallgrímssyni um að verðhækkun á landbúnaðarvörum komi ekki til framkvæmda. Að vísu er sett "rautt strik" við 1. nóvember, verði vísitalan þá komin yfir 477 stig. Hvað skyldi annars verða orðið af þessarri kauphækkun þá?

Með þessum samningum hafa A.S.Í. broddarnir lagt blessun sína yfir kjararán auðvaldsins og hjálpa beint og óbeint atvinnurekendum til að tapsöngur þeirra nái betur til alþýðunnar. Forystumenn A.S.Í. telja, að "verkföll geti verið þjóðhagslega hættuleg", "kjarabarátta verði að miðast við "greiðsluþol atvinnuveganna"" o.s.frv.

Í stað þess að hinn vinnandi fjöldi á sjálfur að skipuleggja samningaviðræður og verkfallsaðgerðir reka A.S.Í. broddarnir Alþýðusambandið sem eigið fyrirtæki þar sem reksturinn byggist á því að koma sér eins og hægt er í mjúkinn hjá atvinnurekendum og ríkisvaldi án þess þó að afhjúpa eðli sitt fyrir augum verkalýðsins. Þessi stefna - stéttasamvinnustefnan - er sá óvinur, sem íslenskur verkalýður þarf að sigrast á til að geta barist af fullri hörku gegn höfuðóvininum - auðvaldinu.

Innan A.S.Í. ríkir ekki virkt lýðræði. Verkamenn missa því fljótt baráttumóðinn er þeir finna, að þeir hafa lítil áhrif á stefnu forystunnar, sem í verki tekur mun nær sér stöðu atvinnuveganna en stöðu alþýðuheimilanna.

Sumir kynnu að álíta að svokölluð baknefnd A.S.Í. bætti um þetta ástand. Svo er þó ekki, því þar sitja einnig ýmsir stéttasamvinnuforkólfar, og þegar þeir sýna einhvern lit eins og þegar þeir kröfðust að togara-

verkfallið yrði leyst samhliða nýjum kjarasamningum , fer 9 manna nefndin ekkert eftir þeim kröfum.

Þó að stéttasamvinnustefnan sé einkenni íslenskrar verkalýðshreyfingar nú eru þó tilraunir einstakra félaga í þá átt að hrista af sér stéttasamvinnustefnuna lofsverðar. Er þá einkum átt við hin 10 verkalýðsfélög norðanlands, sem falið hafa Alþýðusambandi Norðurlands samningamál sín og eru í verkfalli nú sem stendur.

Einnig ber að nefna Baráttusamtök launafólks á Akureyri, sem eru fyrstu samtök verkafólks hér á landi, sem stofnuð eru til höfuðs stéttasamvinnustefnunni.

EIK(m-l) skorar á stéttvíst verkafólk um allt land að veita Alþýðusambandi Norðurlands stuðning í baráttu sinni við þríhöfða þurs atvinnurekenda, ríkisvalds og stéttasamvinnupáfa og að kynna sér jafnframt stefnu og starfshætti Baráttusamtaka launafólks á Akureyri.

Arðrændir og kúgaðir allra landa sameinist!

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ



VERKALÝÐSBLAÐIÐ er málgagn Einingarsamtaka Kommúnista(Marx-Lenínista). Þótt EIK(m-l) séu ung samtök og ennþá lítil, standa þau á traustum pólitískum grundvelli. Á þeim stutta tíma sem samtökin hafa starfað hefur starf þeirra þróast mjög ört og jákvætt. Málgagn samtakanna VERKALÝÐSBLAÐIÐ hefur einnig tekið stakkaskiptum frá því 1.tölublað kom út. En þrátt fyrir framfarir verður fyrst um sinn að haga útgáfu blaðsins á þann veg sem hann er nú, þ.e. að fjölrita blaðið.

Fjárhagsstefna VERKALÝÐSBLAÐSINS stjórnast af þeirri meginstefnu EIK(m-l) að <u>treysta á eigið afl</u> og eigin getu til að afla fjármagns til að standa straum af kostnaði við útgáfu og öllu öðru starfi.

Fyrsta áfangamarkmið í útgáfu VERKALÝÐSBLAÐSINS er að geta gefið blaðið út offsetprentað. En til þess þarf að auka eintakafjöldann og einkum auka fjölda áskrifenda.

Á þessu ári mun VERKALÝÐSBLAÐIÐ koma út einu sinni í mánuði og þess á milli aukablöð þegar ástæða er til.

<u>ÁSKRIFT.</u>

Besta trygging þess að VERKALÝÐSBLAÐIÐ vaxi og batni bæði að innihaldi og formi er aukinn fjöldi áskrifenda. <u>GERIST ÁSKRIFENDUR STRAX Í DAG!</u>

<u>GAGNRÝNI.</u>

Ritnefnd VERKALÝÐSBLAÐSINS hefur tekið á móti margskonar gagnrýni á 1.tbl. blaðsins. Við þökkum þá gagn rýni mjög, en hún m.a. hefur gert það að verkum að þetta tbl. er betu úr garði gert. Betur er vandað til uppsetningar efnis og allt blaðið sett tvídálka. Enn er margt sem betur mætti fara og SKORUM VIÐ Á LESENDUR AÐ SENDA VERKALÝÐSBLAÐINU NOKKUR GAGNRÝNISORÐ.

<u>EFNI VERKALÝÐSBLAÐSINS.</u>

Eftir því sem kostur er á mun VERKALÝÐSBLAÐIÐ reyna að vera alþýðlegt blað, skrifað af og fyrir alþýðuna.

Samhliða því sem blaðið mun skýra frá stefnu og afstöðu EIK(m-l) mun það flytja fréttir og frásagnir um gagn stéttabaráttunnar um allt land Til þess að geta sinnt þessu sem best biðjum við lesendur að senda okkur stuttar fréttir og frásagnir frá vinnustöðum, fundum í verkalýðsfélögunum og öðrum fjöldasamtökum, o.s.frv. Fjölbreitni blaðsins er undir því komin hve vel til tekst að virkja fjölda baráttuglaðra manna um allt land til að skýra frá gangi baráttu íslenskrar alþýðu gegn sífellt harðari árásum ríkisvalds og auðvalds.

<u>VERIÐ VIRK - SKRIFIÐ HJÁ YKKUR OG SENDIÐ VERKALÝÐSBLAÐINU.</u>

# – ÚR VERKALÝÐSBARÁTTUNNI –

## Verkfallsréttur handa BSRB

Norrænir starfsbræður fólks úr Bandalagi starfsmanna ríkis og bæja hafa allir verkfallsrétt. Orsökin fyrir því að BSRB hefur ekki grundvallarréttindi vinnandi fólks er einfaldlega þessi:

Í íslensku auðvaldsþjóðfélagi er ríkisvaldið og bæjarfélögin tæki, sem peningamenn beita fyrir sér í ríkara mæli en víða annars staðar, í sókn sinni eftir auknum gróða og við skipulagningu eigin atvinnurekstrar. Þar að auki er ríkið einn stærsti atvinnurekandi landsins. Stöðvist starfsemi í hluta skrifstofu- eða stofnanabákni ríkisins, eða í farmeliðslugeira þess, getur það bakað atvinnurekendum óbætanlegt tjón.

Meira en helmingur félaga BSRB er láglaunafólk og 2/3 hafa laun sem eru lægri en framfærslukostnaður meðalfjölskyldu.

Vegan vöntunar verkfallsréttar geta þessir samherjar verkafólks ekki beitt einu hvassasta vopni stéttabaráttunnar, nema í trássi við landslög, og kemur þetta í veg fyrir allsherjarþáttöku í vinnustöðvunum og gefur atvinnurekendum og ríkisvaldi tækifæri til að beita gerðardómum, dómsvaldi og jafnvel lögreglu. En verkfallsréttur BSRB fellur ekki af himnum ofna, fyrir honum verður félagsfólk BSRB að berjast, hvað svo sem forystunni kann að "þykja rétt".

## Togaraverkfallið

Verkfall togarasjómanna stendur enn og hefir nú staðið í rúma tvo mánuði. Togarasjómenn hafa mátt þola sífelldar árásir ríkisvalds og útgerðarmanna á kaup sitt og kjör. Og er nú svo komið, að sjómenn á stóru togurunum eru lægst launaðir landsmanna. En sennilega skila þeir mestu verðmæti og vinnu af höndum sér. Þetta gengur ekki lengur. Kjör sjómanna verður að bæta stórlega og í hlutfalli við það, sem áður sagði en ekki öfugu eins og nú líðst.

Kauptryggingin á stóru togurunum var kr. 30.500 á mánuði fyrir verkfallið.

Með bráðabirgðalögunum í september s.l. tók ríkisvaldið nærri 2000 millj. á ársgrundvelli af óskiptu aflaverðmæti og ráðstafaði í þágu útgerðarinnar. Beinlínis skertur hlutur sjómanna frá því borði var um 900 millj. Útflutningsaflaverðmæti stóru skuttogaranna er um 5000 millj. á ári.

Nú í deilunni hafa útgerðarmenn komið með tilboð í þá átt, að tekin yrðu upp hlutaskipti líkt og á bátunum, og á minni skuttogurunum. En í tilboðinu felst sú svívirða, að fækkað verði í áhöfn togaranna, úr 25 í 19 menn. Sjómenn munu ekki láta bjóða sér þvílíkt og annað eins, sem myndi þýða algjöra vinnuþrælkun. Einnig voguðu útgerðarmenn sér að bjóða aðeins 33% af aflaverðmæti til skipta, í stað 40%, sem er á minni togurunum, þar sem er 19 manna áhöfn.

Um tíma leit út fyrir, að lausn málsins væri á næsta leiti, þegar 9 manna nefnd A.S.Í. gerði að skilyrði samninga, að samið yrði við togarasjómenn. En það var svikið, eins og vænta mátti. Einn fulltrúi í baknefndinni, Jón Helgason, leyfði sér jafnvel að hafa á orði að samningum loknum, að það væri hagkvæmt þjóðarbúinu að leysa togaraverkfallið með bráðabirgðalögum.

Það er því greinilegt, að togarasjómenn, eins og reyndar öll vinnandi alþýða, þurfa ekki einungis að berjast við ríkisvald og atvinnurekendur, heldur einnig uppkeypta verkalýðsforystu. Þeir, eins og aðrir, þurfa að vera á verði fyrir spörkum í bakið, frá þeim aðilum, sem gefa sig út fyrir að vera fulltrúar hins vinnandi fjölda og leiðtogar í baráttunni.

# Kjarabarátta á Norðurlandi

## IÐJUFUNDUR

Kosningarnar í verkalýðsfélaginu Einingu á Akureyri í fyrra mörkuðu ákveðin tímamót í verkalýðsbaráttunni á Norðurlandi. Þá brutust fram í röst hinir tveir meginstraumar í íslenskri verkalýðshreyfingu, stéttasamvinnustefna og baráttustefna. Síðan hafa leiðir tveggja fylkinga fyrir norðan skilist æ meir, bæði í stefnu og starfsaðferðum. Það kemur öðru fremur fram í því hvert félögin sendu samningaumboð sitt við kjarasamningana. Annarsvegar eru félög, sem fengu 9manna nefnd ASÍ umboð sitt og hins vegar þau, sem fengu samninganefnd Alþýðusambands Norðurlands (AN) það. Þar hefur orðið til krafan: SAMNINGANA HEIM Í LANDSHLUTANA OG FÉLÖGIN.

Það sem mest veikir fylkingu norðanfélaganna er smæð þeirra, dreifð staða og atvinnuástand í hinum minni bæjum. Og svo einnig það að tvö stærstu verkalýðsfélögin á svæðinu Eining og Iðja á Akureyri eru ekki í þeirra hópi.

### Afstaða Iðju - Iðjufundur.

Svo sem fólk veit er forysta Einingar í höndum stéttasamvinnumanna. Hvað með Iðju?

31.maí var fundur um verkfallsheimild í Iðju. Mælti formaðurinn, Jón Ingimarsson, með heimild, sen sagðist þó af öllu hjarta vona að takast megi að semja án verkfalla. En semja um hvað? Eigi verkafólk að ná fram kröfum sínum verður




það ekki gert átakalaust og það gat Jón sagt, annars gefur hann bara falskar vonir.

Aðalumræða fundarins varð síðan um samningaumboðið. Til 9manna nefndarinnar eða AN ?

Þar tók formaðurinn eindregna afstöðu með ASÍ-samfloti en illskaðist út í AN og taldi þann félagsskap ekki eiga rétt á sér. Þegar borin var fram tillaga um að fela samninganefnd AN umboðið greip formaðurinn það undarlega ráð að fullyrða að tillagan stríddi gegn lögum félagsins, þ.e. hún svipti samninganefnd félagsins öllu umboði. Þetta er algerlega tilhæfulaust, en með svona aðferðum fékk hann vísað tillögunni frá. Hvað svo?

Samningar félagsins lentu því hjá 9manna nefndinni og að sjálfsögðu fékk verkafólk ekkert að vita af samningum fyrr en Jón kom með þá norður. Með þessu er haldið áfram á braut fámennisvaldsins og allt lýðræði drepið og þar með einnig öll virkni félagsins og félagsmanna. Jón afhjúpar sig sem stallbróður Einingarforystunnar og málsvara stéttasamvinnustefnunnar. Gott er það því hann siglir annars undir fölsku flaggi.

---

# Útifundur á vegum BSL

Baráttusamtök launafólks gengust fyrir útifundi 8.þ.m. Tilgangur aðgerðanna var að virkja til baráttu þann stóra fjölda, sem óánægður er með ríkjandi stéttasamvinnustefnu, reka sem mest á eftir duglausri og svikulli verkalýðsforystu í samningunum og að vekja athygli á þeim kröfum, faglegum og pólitískum, sem að mati BSL voru mikilvægastar. Það er eitt af grundvallaratriðum í stefnuskrá BSL að því aðeins náist árangur í kjarabaráttunni, að það takist að virkja verulegan hluta vinnandi fólks í baráttunni.

BSL settu fram eftirfarandi kjörorð á útifundinum:

1. Virðum engin kjararánslög ríkisvaldsins!
2. Gegn áhrifum ríkisvaldsins á samninga sem þriðja aðila!
3. Samningana heim í landshlutana - opnar samningaviðræður!
4. Gegn vinnulöggjöf auðvaldsins!

5. [illegible] yfirráð verkalýðsins yfir lífeyrissjóðunum!

6. Verkfallsrétt til BSRB!

7. Öll yfirvinna greiðist á næturvinnutaxta!

8. Fullar vísitölubætur frá samningum '74 - engar áfangahækkanir. Vísitölubætur - jöfn krónutala á öll laun miðað við framfærslukostnað.

Ræðumenn á fundinum voru ó Óskar Garibaldason, varaformaður Verkalýðsfélagsins Vöku á Siglufirði, Jakobína Sigurðardóttir rithöfundur og Jón Ásgeirsson formaður Alþýðusambands Norðurlands.

Fundinn sóttu um 100 manns.

Þrátt fyrir að BSL hefir tekist á tiltölulega stuttum tíma að virkja allstóran hóp til baráttu, er ljóst, að verkafólk almennt hefir ekki gert sér grein fyrir nauðsyn þess að skipuleggja sig í baráttusamfylking fyrir brýnustu hagsmunum sínum.

En Baráttusamtökin eru enn mjög ung samtök og í mótun, og félagafjöldinn frá mismunandi vinnustöðum eykst sífellt. Þau eru fyrsta árangursríka tilraun nú í seinni tíð til að hefja skipulagða baráttu gegn stéttasamvinnupáfum.

Vinnandi menn og konur! Takið þátt í starfi með Baráttusamtökum launafólks og herðum baráttuna!

# Viðtal við Jón Ásgeirsson formann Alþýðusambands Norðurlands



VERKALÝÐSBLAÐIÐ: Hvers vegna tók AN ekki þátt í ASÍ-samflotinu?

Jón Ásgeirsson: Það á sér alllangan aðdraganda, en meginástæðurnar má segja að séu fyrst og fremst sú afstaða okkar að vilja semja í heimahéraði, á félagssvæðunum. Reynslan af stóru samflotunum síðustu ára er sú að þar hafa ýmsar sérkröfur dagað uppi. Hér er oft um að ræða kröfur sem eru mjög brýnar fyrir einstaka staði. Það er einnig ljóst að þegar samið er í einu lagi er það þægilegasti hátturinn fyrir atvinnurekendur til að beita fjármagni sínu og aðstöðu gegn verkalýðshreyfingunni. Þeir reyna t.d. að tefja samninga með miklum orðaflaumi um fjárhagsstöðu sína, þar sem fulltrúar ríkisins flytja skýrslur, sem samdar eru uppúr skattaframtölum atvinnurekenda. Eðlileg framkvæmd samninga væri að samið sé við raunverulega atvinnurekendur á hverjum stað. Slíkt gæfi vafalítið besta raun.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ: Í hverju fólst munurinn á kröfum AN og ASÍ?

Jón Ásgeirsson: Okkar höfuðkrafa var um óskertar vísitölubætur. AN lagði til grundvallar framfærslukostnað vísitölufjölskyldunnar en ASÍ miðaði við 6. taxta Dagsbrúnar. Sama krónutala skyldi koma á öll laun skv. kröfu beggja samtakanna. Slík viðmiðum hefur sýnt sig vera alltof lág, þar sem (skv. Kjararannsóknanefnd) 5. taxti er lægsti taxti, sem unnið er eftir í raun svo einhverju nemi.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ: Hverju fékk AN helst áorkað?

Jón Ásgeirsson: Að baki AN stóðu Verkalýðsfélag Raufarhafnar, - Presthólahrepps, - Húsavíkur, - Siglufjarðar, - Ársæll á Hofsósi, - Skagastrandar, - A-Húnvetninga á Blönduósi, - Hvöt á Hvammstanga og Verkakvennafélagið Aldan á Sauðárkróki. Með ekki meiri styrk þótti okkur ekki sigurstranglegt að ná fram breytingum á rammasamningnum, þar sem líka ljóst var að ríkisvaldið, atvinnurekendur og ASÍ, þ.e.a.s. þeir aðilar sem í raun gerðu hann, væru mjög mótfallnir öllum breytingum á rammanum.

Til hliðar við þennan rammasamning náðum við ýmsum þáttum í sérsamningi okkar, t.d. samningi um uppskipun á kassafiski og lausum fiski upp úr togurum. Þessum samningi hefur okkur alltaf verið neitað um. Síðan eru ýmsar tilfærslur í töxtum, en trúlega er næst stærsti sigur okkar yfirlýsing sem við fengum um breytta

meðferð orlofsfjár. Þar er kveðið á um að orlofsfé sé greitt með ávísun vikulega og lagt inn á banka á viðkomandi stað. Þar kemur einnig að sett verði inn í orlofslögin að atvinnurekendur greiði vanskilasektir,sem ekki verði lægri en sektir af ógreiddum launaskatti,þ.e. 25%.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ: Hvað viltu annars segja um rammasamninginn?
Jón Ásgeirsson: Ég vil benda á þá staðreynd að núna í júní vantaði upp á fullar vísitölubætur um 93 kr. á klst. á 5.taxta AN. Eftir samningana vantar á milli 60 og 70 krónur. Þetta gefur augljóslega mynd augljósa mynd af því hvað samningurinn er lélegur. Nú,þessvegna er gert ráð fyrir að vísitölubætur verði greiddar ef vísitalan verður yfir 477 stig 1.nóvember. Þessar bætur yrðu þá greiddar frá 1.desember,þ.e.a.s.síðasta mánuði samningstímabilsins. Í þeirri spá sem Hagrannsóknarstofnunin lagði fram segir að vísitalan verði komin í 482 stig í lok febrúar 1976. Þar virðist allsekki lagt til grundvallar að framfærslukostnaðurinn hefur hækkað miklu meira.Ef miðað er við þá þróun sem verið hefur hækkar vísitalan yfir 50 stig og er þá munurinn á 5.taxta orðinn 130 kr. á klst..Hér hefur því verið stigið skref afturábak.
Að lokum: Greinilega er að því stefnt að í lok þessa samningstímabils verði gerður svipaður samningur og þessir tveir síðustu og bráðabirgðalög ríkisins frá 1974. En með slíku áframhaldi er ekki sjáanlegt annað en að verið sé að reyna að koma málum þannig fyrir að hinn almenni verkamaður hafi ekki fjárhagslegt bolmagn til að standa í þeirri hörðu kjarabaráttu sem nauðsynlegt er að fara í ef nást á einhver árangur.

---

## EININGARFUNDUR UM NÝJU SAMNINGANA

Fundur um nýju kjarasamningana var haldinn í Einingu laugardag 14/6. Jón Helgason formaður félagsins fylgdi samningunum úr hlaði.Lýsti hann með mörgum fögrum orðum hversu miklir dáindissamningar þetta væru og mikil kjarabót á þessum þrengingartímum. Ekki voru allir á sama máli og formaðurinn og mótmæltu nokkrir samningunum. Þorsteinn Jónatansson fundarstjóri sá þá þann kost að loka mælendaskrá og bera samningana undir atkvæði. Af um 100 fundarmönnum greiddu 21 atkvæði gegn.Má þó ætla að óánægjan hafi verið talsvert meiri þó menn sæju ekki annan kost en samþykkja.

(Fréttaritari Akureyri)

---

# þökk fyrir magnús

Kommúnistar hafa löngum haldið því far að enginn meginmunur væri á stefnu Alþýðubandalagsforystunnar og hægrikrata.

Forystan á oft í vök að verjast gagnrýninni og ber þar til að fólk þekkir orðið mýmörg dæmi þess að Alþýðubandalagið er stoð og stytta hins innlenda stórauðvalds og ríkisauðvalds - að flokkurinn ætlar aldrei að brjóta niður ríki auðvaldsins, svifta auðvaldið öllu forræði og byggja nýtt ríkisvald alþýðunnar með samtakamætti utan alþingis.

Hér eru nokkrir bitar af hugmyndafræði vinstrikratanna. Þeir ættu að vekja þá framsæknu aðila, sem ganga með "endurreisn Alþýðubandalagsins" í maganum, til umhugsunar:

<u>Þjóðviljinn 29.4.</u> "Á síðustu fjórum áratugum hefur það orðið augljóst mál að þau markmið sem að var stefnt í sjálfstæðisbaráttunni verða aðeins tryggð fyrir tilstilli almannavaldsins, með <u>sameiginlegu átaki þjóðarheildarinnar, með sivaxandi ríkisrekstri, bæjarrekstri og samvinnurekstri.</u> <u>Þetta eru forsendur efnahagslegs sjálfstæðis á Íslandi</u>, og <u>þróunin mun óhjákvæmilega þoka okkur til sivaxandi félagshyggju</u>, til sósíalisma í samræmi við íslenskar aðstæður, <u>ef við förum sjálfir að ráða.</u>"

Og

"Á þessu stigi er <u>ríkiskapítalismi mikilvægur</u> vegna þess að hann <u>er eina leiðin</u> til að tryggja sjálfstæði Íslands á sviði efnahagsmála og atvinnumála: einkaframtakið skorti áður getu og nú <u>hefur það ekki einu sinni vilja.</u> <u>Hins vegar er ríkiskapitalismi</u> ekkert markmið <u>í mínum</u> huga; hann kemur fyrir <u>lítið ef</u> ekki er hægt að <u>gæða hann lýðræðislegu inntaki.</u>" (Undirstr.: Verkalýðsblaðið)

Magnús Kjartansson á þakkir skilið fyrir hreinskilina.



# KREPPA

Alþjóðleg efnahagsleg og pólitísk kreppa er nú skollin á í auðvaldsskipulaginu.

Atvinnuleysi vex hröðum um allan heim. Í Vestur-Evrópu hefur framleiðslan staðnað og dregist saman á mörgum sviðum. Í Bandaríkjunum eru yfir 8 milljónir atvinnulausra. Í Sovétríkjunum og þeim löndum, þar sem sósíalheimsvaldastefnan enn ræður ríkjum vex stríðsframleiðslan örum á meðan framleiðsla neysluvarnings staðnar. Atvinnuleysi vex þar einnig ört og framleiðsluáætlanir eru einungis pappírsplögg ein í höndum skrifræðisborgaranna.

<u>Þróunin</u>

Hin almenna kreppa auðvaldsskipulagsins hefur verið að skerpast í áratuga þróun.

"Hin almenna kreppa alþjóðlega auðvaldsskipulagsins hófst í tíð fyrri heimsstyrjaldarinnar, einkum vegna þess að Sovétríkin hurfu á brott úr auðvaldsskipulaginu. Þetta var fyrsti áfangi almennu kreppunnar." (Stalín)

Kreppunni um og eftir 1930 velti auðvaldið yfir á herðar alþýðunnar uns það endurskapaði jafnvægið á ný með uppskiftastyrjöld, heimsstyrjöldinni síðari. En um leið þróaðist annar áfangi hinnar almennu kreppu auðvaldsskipulagsins þegar alþýðulýðveldin í Evrópu og Asíu rifu sig laus úr hringiðu auðvaldsins.

Eftir síðari heimsstyrjöldina þandi bandaríska heimsvaldastefnan klær sínar um allan hnöttinn.

En innri andstæður auðvaldsskipulagsins hurfu ekki heldur héldu áfram að skerpast. Í krafti yfirburðardrottnunar sinnar tókst

bandarísku heimsvaldastefnunni lengi að leysa efnahagslegar og pólitískar kreppur með ógnunum og stríðsrekstri. En Víetnamstríðið frá upphafi til endaloka og algers hernaðarlegs og pólitísks ósigurs bandarísku heimsvaldastefnunnar í Indókína er lýsandi dæmi um heimsvaldasinnað risaveldi sem er í stöðurgi

þróun. Í dag eru Bandaríkin augljósasta dæmið um að auðvaldsskipulagið hefur aðeins í för með sér kreppur,ömurleika og stríð.Bandaríkin eru dæmi um rotnandi auðvaldsskipulag.

Tiltölulega langvarandi jafnvægistímabili eftir seinni heimsstyrjöldina er lokið. Fyrsta sósíalíska ríkið - Sovétríkin - tók nýja stefnu og skifti litum. Auðvaldsskipulagið var endurreist í Sovétríkjunum. Þetta hjálpaði heimsvaldastefnunni að viðhalda jafnvæginu og minnka kreppuáhrifin.

Í dag eiga hin heimsvaldasinnuðu Sovétríki ekki síður í pólitískum og efnahagslegum erfiðleikum en gömlu heimsvaldaríkin. Sovétríkin sækjast nú engu minna en Bandaríkin eftir athafnarúmi, eftir "Lebensraum". Bæði þessi risaveldi halda löndum og þjóðum í járngreipum. Vígbúnaður beggja hefur aldrei verið meiri en nú síðustu ár.Allar hinar s.k. friðarviðræður um afvopnun og bönn við notkun kjarnorkuvopna kafna í járnaglamri vígbúnaðar risaveldanna. Hvorugt risaveldanna hefur nægilegt athafnarúm til að fullnægja heimsvaldastefnum sínum. Eina lausnin sem þau hafa er ný heimsstyrjöld til að skifta jörðinni upp á milli sín í áhrifasvæði.

En löndin heimta sjálfstæði, þjóðirnar frelsi og alþýðan um allan heim vill byltingu. Þetta er höfuðtilhneygingin í heiminum í dag. Sérhvert atriði sem styrkir þessa tilhneygingu vinnu gegn stríðshættunni. Aukið sjálfstæði landanna og frelsi þjóðanna vinnur gegn tilætlunum risaveldanna og minnkar stríðshættuna. Barátta fyrir sjálfsákvörðunarrétti og gegn landssölustefnu íslenska afturhaldsins er þáttur í þeirri alþjóðlegu baráttu sem háð er gegn risaveldunum báðum.

Frelsisbarátta þjóðanna í Indókína er svo lýsandi dæmi um það hvernig litlar þjóðir geta unni hernaðarlegan og pólitískan sigur yfir risaveldi sem beitir þeirri öflugustu stríðsvél sem beitt hefur verið í stríði hér á jörðinn LÆRUM AF REYNSLU ÞJÓÐA INDÓKÍNA.

## Ísland.

Hér á Íslandi hefur kreppan markað djúp spor. Óðaverðbólgan er aðeins vottur um rotnandi auðvaldsskipulag. Íslenska einokunarauðvaldið og ríkisauðvaldið gerir nú úrslitatilraunir til að velta kreppubyrðunum yfir á herðar vinnandi alþýðu. Í tilraunum sínum fær auðvaldið duglega hjálp frá forystuliði alþýðusamtakanna,sem gengið hefur á hönd borgarastéttinni. Síðustu samningar voru blekkingarsamningar.Verkafólki var talin trú um að þeir væru kjarasamningar á meðan þeir voru "friðarsamningar" um frið á vinnumarkaðinum. Þessi stéttasamvinna forystuliðs ASÍ og vinnuveitenda gefur aðeins auðvaldinu betra ráðrúm til að koma sínu fyrir,spinna blekkingarvefinn ennþá lengra og velta byrðunum betur á herðar vinnandi alþýðu. Og á sama tíma og þetta gerist eru allar gáttir opnaðar fyrir erlendu auðmagni til fjárfestinga í íslenskum auðlindum og vinnuafli.

Pólitíska ástandið nú einkennist af skæðri stéttabaráttu og almennu vantrausti á pólitísku þingræðisflokkana,hvort sem þeir heita Alþýðubandalag eða Sjálfstæðisflokkur. ASÍ forystan og málpípur Alþýðubandalagsins krefjast síaukinna ríkisafskifta af vinnudeilum og tala um þjóðarhörmunga þegar verkafólk og sjómenn steyta hnefann og hefja verkfallsbaráttu. Þessar sjálfskipuðu málpípur verkalýðsins kalla á auðvaldsríkið til málamiðlunar og dóma í samningabaráttunni og veikja þar með stöðu verkalýðsins. En einmitt þetta er einkennandi fyrir ástand það sem ríkir á krepputímum. Samábyrgð borgaralegrar kratastefnu með hagsmunum"þjóðar"skútu auðvaldsins leysir alla verstu þætti stéttasamvinnustefnunnar úr

læðingi. Að telja verkafólki trú um að kjör þess geti ekki batnað nú vegna ástands efnahagsmála er að róa með árum auðvaldsins.

En einmitt nú þegar illa árar hjá auðvaldinu og það barmar sér og kveinkar ætti róðurinn gegn því að verða auðveldari. Þess vegna er svikastarfsemi ASÍ forystunnar og kratanna í Alþýðubandalaginu enn alvarlegri, þar sem þessir aðilar hafa unnið ötullega að því að rjúfa baráttusamstöðu alþýðunnar fyrst og fremst með því að nota sér það lága meðvitundarstig sem ríkir meðal alþýðunnar um stöðu sína og samtakamátt og hrifsa af henni völd og frumkvæði í stéttabaráttunni.

Án reynslu nær enginn langt. Og er von að litlu verið áorkað þegar öll reynsla samningabaráttunnar er hjá fjandsamlegu liði ASÍ forystunnar. SAMNINGANA HEIM Í LANDSHLUTANA er því brýn og réttmæt krafa sem allt verkafólk verður að styðja. Og til að tryggja lýðræðisleg vinnubrögð verður að krefjast OPINNA SAMNINGAVIÐRÆÐNA þannig að verkafólk geti fylgst með öllu því sem fram fer á hverju stigi samninganna.

Kreppan sverfur að. Með hjálp stéttasamvinnustefnunnar reynir auðvaldið að velta byrðunum yfir á herðar vinnandi alþýðu og veikja samtakamátt og baráttuaðstæður alþýðunnar. Lausn þessa er ekki fólgin í nýjum þingkosningum né öðru baktjaldaráðabruggi. Eina lausnin er pólitísk valdataka verkalýðsins og alþýðunnar allrar á öllu sviðum, einnig í eigin samtökum, fagfélögunum.

Og það eina sem getur hindrað að kreppan á alþjóðamælikvarða þróist út í styrjöld á milli risaveldanna tveggja -Bandaríkjanna og Sovétríkjanna- er óbilgjörn þjóðfrelsisbarátta og sjálfstæðisbarátta allra þjóða, barátta sem fyrst og fremst beinist gegn áhrifum þessara tveggja risavelda.

ALÞÝÐAN ÖLL VERÐUR AÐ BINDAST BÖNDUM OG HEFJA BARÁTTUMERKIÐ Á LOFT.

---

Eins og kunnugt er náðist ekki eining um aðgerðir allra andstæðinga stéttasamvinnunnar 1. maí.

Mikið samningaþóf hafði staðið allan aprílmánuð, en án árangurs. Upphaflega fóru viðræðurnar fram á vegum Rauðrar verkalýðseiningar. Þátttakendur auk hennar voru Fylkingin, EIK(m-l). KSML, Sósíalistafélag Reykjavíkur, Rauðsokkur, Verðandi og Stúdentaráð H.Í. Ástæðan til þess að þar náðist ekki samkomulag var aðallega krafa Fylkingarinnar um að fá að halda uppi sérkröfum sínum innan aðgerðanna. Kröfur þessar, um sósíalískt Víetnam o.fl., gat enginn annar þátttakandi í viðræðunum samþykkt - nema Rauð verkalýðseining, sem yfirleitt kom fram í þessum viðræðum sem hali úr Fylkingunni.

Þegar ljóst var, að ekki næðist samkomulag um Rauða verkalýðseiningu, boðaði KSML til fundar um aukinn og breyttan grundvöll Rauðs framvarðar. Virtust þar nokkuð góðar líkur á að ná samkomulagi.

En aldrei var haldinn nema einn fundur um Rauðan framvörð, því það næsta, sem gerðist, var, að haldinn var fundur í Verðandi, þar sem ákveðið var að gera lokatilraun til að sameina alla þá, sem þátt höfðu tekið í viðræðunum um Rauða verkalýðseiningu. Fylkingin tók þátt í þessu, en hafði þá daginn áður lokið við að búa til prentunar tölublað af Neista þar sem auglýstar voru aðgerðir í nafni Rauðrar verkalýðseiningar. Í umræðum um grundvöll þann, sem stúdentar lögðu fram, hélt Fylkingin enn fast við það að fá að halda uppi sérkröfum sínum, og varð þannig brátt ljóst, að hún yrði ekki með. EIK(m-l) gerði tilraun til að ná samstöðu með KSML um breytingar á grundvelli þessum, en KSML neituðu algerlega að taka þátt í þessum við-

ræðum.

Þegar hér var komið og ljóst orðið, að ekki yrði af samfylkingu allra, ákváðu þeir, sem enn tóku þátt í viðræðunum aðrir en EIK(m-l), að láta sér nægja að lýsa yfir "óánægju, áhyggjum og harmi" yfir málalokum og hafast ekki að 1. maí. Það skal tekið fram til að forðast misskilning, að EIK(m-l) voru fús að hafa aðgerðir í samvinnu við þá, sem sameinast gátu og vildu.

EIK(m-l) skrifuðu þá KSML bréf og fóru fram á aðild að Rauðum framverði á jafnréttisgrundvelli gegn ákveðnum breytingum. Það er varla hægt að segja, að KSML virtu bréfið svars, því neikvætt svar barst loks að morgni 1. maí.

Verkalýður og allir andstæðingar stéttasamvinnunnar höfðu mestan skaða af skollaleik þessum og endalokum hans, þar eð ekki tókst að mynda öfluga samfylkingu til mótvægis við skrúðgöngu stéttasamvinnupáfanna.

Að vísu tókst Fylkingunni að ná nokkrum fjölda undir merki Rauðrar verkalýðseiningar, enda hélt hún lítt á lofti sínum lúpulegu sérkröfum í áróðri fyrir 1. maí.

KSML gengu undir sínum "rauðu" kröfum og fjöldi þátttakenda var svipaður og undanfarin ár, þó annað sé látið í veðri vaka í Stéttabaráttunni. Gaman væri að sjá þá töfraformúlu, sem notuð var til að reikna út, að um þúsund manns hafi sótt útifund KSML.

Vilji KSML kallast marx-lenínistar verða þau að gera upp við sína sjálfumglöðu einangrunarstefnu og taka þátt í myndun samfylkingar gegn stéttasamvinnunni. Slík samfylking er orðin knýjandi nauðsyn. Skollaleikurinn má ekki endurtaka sig.

## Akureyri



Það viðraði ekki of vel til útiaðgerða á Akureyri 1.maí s.l. Í slydduhríð gengu hátt á annaðhundrað manns undir kröfum samfylkingar Baráttusamtaka launafólks,EIK(m-l),KSML,AB á Akureyri, Hópa byltingarsinnaðra marxista, Félags iðnnema og Akureyrardeild Sjúkraliðafél.Íslands. Gönguna studdu einnig Verkal. fél. Vaka á Siglufirði,Verkal. fél.Skagastrandar,Verkakvennafél.Aldan á Sauðárkróki,Verkal. fél.A-Húnvetninga,Verkal.fél. Húsavíkur og Verkal.fél.Raufarhafnar.

BSL höfðu frumkvæði að aðgerðum 1.maí undir heitinu BARÁTTUGANGA 1.MAÍ 1975. Meðal kjörorða var:

= Samningana heim í landshluta - opnar samningaviðræður!
= Fullar vísitölubætur frá samningum 1974 - Engar áfangahækkanir!
= Vísitölubætur - jöfn krónutala á öll laun miðað við framfærslukostnað!
= Full yfirráð verkalýðsins yfir lífeyrissjóðunum!
= Gegn vinnulöggjöf auðvaldsins!
= Virðum engin kjararánslög ríkisvaldsins!
= Gegn áhrifum ríkisvaldsins á samninga sem þriðja aðila!

Að göngu lokinni var útifundur á Ráðhústorgi,þar sem töluðu: Jón Ásgeirsson formaður AN, Jóhanna Þorsteinsdóttir sjúkraliði og Guðm.R.Heiðarsson nemi. Á fundinum voru tæpelga 200 manns. Að loknum útifundi var dagskrá, saman tekin af BSL flutt í Alþýðuhúsinu.Þar var sungið,kveðnar rímur og ljóð lesin.Auk þess var ályktun samþykkt.

Forysta verkalýðsfélaganna á Akureyri efndi til innifundar, þar sem um 100 manns voru saman komin,en er einn höfuðpaur forystunnar ætlaði að halda smá ræðu gekk verulegur hluti fundarmanna úr salnum,sökum þess hve ræðumaður var drukkinn.

Einnig röltu 12 manns undir rauðum fánum um nokkrar götur eyrarinnar. Var þar á ferð "brjóstfylking ísl. öreigastéttar" KSMLb.Voru aðgerðir þeirra samtaka allar hinar háðuglegustu.

Hér á Akureyri gerðist því það að allt baráttusinnað afl sameinaðist á 1.maí og er það annað en hægt er að segja um t.d. 1.maí

Framhald á bls. 17.

# TIL VERKAKVENNA!



## FJÖLDAUPPSAGNIR KVENNA

Hvernig stendur á því að konur verða alltaf fyrstar fyrir barðinu á atvinnuleysinu?
Hvers vegna eru konur alltaf reknar heim þegar atvinnurekendum hentar?
Er ekki kominn tími til að allar verkakonur myndi með sér samtök til að standa gegn slíkum geðþóttauppsögnum atvinnurekenda?
Um 360 konur eru nú atvinnulausar í fiskiðnaði og fjöldauppsagnir kvenna eru yfirvofandi í saumaiðnaði. Því miður eru konur enn þann dag í dag álitnar sem varavinnuafl, sem kippa megi í burtu hvenær sem hinum háu herrum þóknast. Verkalýðsblaðið skorar á allar þær verkakonur, sem eitthvað hirða um stöðu sína, að standa saman í þeim átökum sem fyrirsjáanleg eru í stéttabaráttunni í náinni framtíð. Látið ekki endalaust blekkja ykkur með fallegum orðum um göfugt uppalanda og móðurhlutverk ykkar <u>aðeins</u> þegar einhverja stórlaxa hentar að senda ykkur heim. Verkakonur í Sókn, Framsókn, Framtíðinni og öðrum verkalýðsfélögum, komið á fót starfshópum innan félaganna, haldið fundi og haldið vöku ykkar, takið virkan þátt í verkalýðsbaráttunni.
<u>Án þáttöku verkakvenna næst enginn sigur í verkalýðsbaráttunni.</u>

Verkalýðsblaðið skorar á allar verkakonur og aðrar láglaunakonur að taka höndum saman í baráttu fyrir fullri atvinnuþátttöku kvenna og virkri baráttu innan verkalýðsfélaganna.
Kastið af ykkur fjötrunum, fram til baráttu!

## TIL VERKAKVENNA OG ANNARRA LÁGLAUNAKVENNA

Ráðstefna um kjör kvenna til sjávar og sveita var haldin á Neskaupstað laugardaginn 26. apríl 1975. Þátttakendur voru alls 40, þar af 10 manns úr Reykjavík. Fjögur framsöguerindi voru haldin af starfsfólki sjúkrahússins, frystihússins og starfsamnns verkalýðsfélagsins á staðnum. Í þeim kom m.a. fram að meira en helmingur allra húsmæðra í bænum vinna úti og 38% launþega bæjarins eru konur á aldrinum 18-67 ára. Þátttaka kvenna í nefndum og félagsstörfum er aftur á móti miklu minni eða 25% og þá einna helst í hefðbundnum kvennamálum, þ.e. líknarstörfum uppeldismálastörfum og heilbrigðismálum. Þessari félagslegu deyfð kvenna má auðveldlega rekja til hins tvöfalda vinnuálags, sem flestar konur búa við, sem vinna úti. Einnig kom fram að samstaða kvenna gæti verið meiri þegar á reyndi í ýmsum hagsmunamálum þeirra sjálfra á vinnustað og allt of algengt er að konur líti sjálfar á sig sem varavinnuafl, sem ekki þurfi að vita nokkuð um stöðu sína. Enginn trúnaðarmaður hefur verið hjá verkakonum og lítil sem engin tengsl eru á milli verkafólks almennt og verkalýðsfélaganna. Þetta sambandsleysi má eflaust finna víðast hvar úti á landi jafnt sem í Reykjavík. Sambandsleysið birtist m.a. í því að upplýsingum um samninga, lífeyrissjóði og önnur mál, sem snerta verkafólk er ekki dreift meðal þess. Starfsmaður verkalýðsfélagsins á Norðfirði talaði um lífeyrissjóðina og urðu þónakkrar umræður um þá, en það kom fram að reglur og lög varðandi sjóðina eru svo flókin að þau þurfa helst lögfræðilegra útskýringa við og segir það sig sjálft, að það er ekki á færi hins almenna launþega að stauta sig fram úr slíkum lögum.

Eftir að framsöguerindum lauk störfuðu þátttakendur í starfshópum, sem fjölluðu m.a. um verkalýðsmál, lífeyrissjóðina og skóla- og uppeldismál. Þessir hópar skiluðu skiluðu síðan niðurstöðum, sem aðeins voru birtar í einu dagblaðanna. Helstu niðurstöður voru:

= Enginn fulltrúi verkakvenna á sæti í 9manna samninganefnd ASÍ.

Framhald bls. 17.

# [illegible] í Kambódíu og S-Víetnam

Bandaríska heimsvaldastefnan hefur nú mátt þola sína fyrstu afgerandi hernaðarlegu uppgjöf. eftir að þau tóku sér forræði heimsvaldsinnuðu landanna. Og sigurvegararnir eru þjóðir Indókína. Það gefur nokkra vísbendingu um eðli pappírstígrísdýrs á borð við bandarísku heimsvaldastefnuna, að fram til þess tíma, sem Parísarsamkomulagið var undirritað, voru ekki margir evrópskir vinstrimenn, sem trúðu í raun og veru á sigur alþýðunnar í Indókína.

En framan af árinu 1975 höfðu fréttastofnanir borgaranna ekki undan að segja frá sigrum, hernaðarlegum og pólitískum, Þjóðfrelsisfylkingarinnar í S-Víetnam (ÞFF) og Alþýðuhersins og þar til frelsun Kambódíu og S-Víetnam varð. Sigurinn í Indókína kennir okkur að stoðir auðvaldsins eru fúnar og gjarnan holar að innan, þannig að sé ein þjóð ákveðin í að hrinda af sér okinu er ekkert sem getur hindrað það, nema alger útrýming þjóðarinnar. Þetta sannar okkur líka að maðurinn er mun mikilvægari en það verkfæri, sem hann heldur á. Alþýðustríðið er ekki spurning um vopn og vistir, heldur samtaka um vopn og vistir, heldur um samtakamátt og sköpunarmátt alþýðunnar. En breið samfylking að baki ÞFF og Bráðabirgða Byltingarstjórnarinnar í S-Víetnam(BBS) og Þjóðfrelsisfylkingarinnar (FUNK) og Þjóðlegu konunglegu einingarstjórnarinnar(GRUNK) í Kambódíu var einmitt sá grunnur sem sigurinn var byggður á. Víetnamar og Kambódíumenn máttu þola geysilegar sprengjuárásir á lönd sín. En þeim lærðist fljótt að notfæra sér sprengjubrot og annað brak til framleiðslu á einföldum, en skæðum vopnum, sem beitt var gegn innrásaröflunum. Þannig getur alþýðan snúið hverri sókn heimsvaldasinna í gagnsókn. Þetta hafa bandarísku heimsvaldasinnarnir lengi neitað að viðurkenna, en þeir urðu neyddir til þess, og við sem höfum fylgst með þessum atburðum úr fjarlægð stöndum í



## Þáttur Sovétríkjanna.

Sovétríkin hafa lengi státað af því hversu mikilvæg aðstoð þeirra við þjóðir Indókína væri. stórri þakkarskuld við þær þjóðir sem knúðu fram þá viðurkenningu. Því undruðust margir þegar það upplýstist að starfsmenn Sovéska sendiráðsins í Phnom Penh þorðu ekki að horfast í augu við hermenn FUNK, heldur skriðu undir pilsfald Frakka. Ástæðan var að hinir nýju valdhafar í Kreml héldu fullu stjórnmálasambandi við Lon Nol klíkuna í Phnom Penh fram á síðustu stundu. Tvisvar sinnum, fyrst í mars 1974 og síðan í apríl 1975, þóttust Sovétríkin viðurkenna FUNK og GRUNK í Kambódíu, en þau slitu samt ekki stjórnmálasambandi við Lon Nol og héldu áfram að veita aðstoð sína Kvislingunum í Phnom Penh. Það féll ekki að áætlunum risaveldanna að Kambódíanska þjóðin réði sér sjálf. Ennfremur kom það fram skömmu eftir sigurinn í S-Víetnam að Sovétríkin kröfðust flotastöðvar fyrir ört stækkandi úthafsherflota sinn í S-Víetnam. Hjálpsemi þeirra við þjóðir Indókína hefur því verið í eigingjarnara lagi.

Sú staðreynd að Bandaríkin treystu sér til að hefja sjóræningjaaðgerðir gegn Kambódíu

við töku njósnaskipsins Majaqes, skýtur undir það fótum að þeir hafi "leyfi" Sovétmanna til hvers konar aðgerða gegn Kambódíu.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ vill taka undir vígorð Kambódísku þjóðarinnar: FRAMVARÐASVEITUNUM ALLT, SIGRINUM ALLT, því enginn efast um að alþýða Indókína er framvörður í baráttunni gegn heimsvaldasinnum og hún á því skilinn allan þann stuðning sem við getum veitt - og hennar sigur er einnig okkar sigur.

Íslensk stjórnvöld verða að VIÐURKENNA BBS í S-Véi VIÐURKENNA BBS í S-Víetnam og GRUNK í Kambódíu.

☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆☆

# 200 mílur eða ekki ?

Á hafréttarráðstefnunni í Genf tók íslenska sendinefndin afstöðu með evrópskum auðvaldsríkjum, Sovétríkjunum og Bandaríkjunum. Baráttumál þeirra er 12 til 50 mílna fiskveiðilögsaga og 200 mílna efnahagslögsaga. Risaveldin heimta siglingarfrelsi fyrir vígvélar sínar um öll höf, sbr. flotaæfingar NATO og Sovétríkjanna,og rétt til að "stunda rannsóknir" á grunnsævi,þ.e.leita auðlinda til að kaupa og ræna.

Íslenskt afturhald styður þetta og hugsar sér gott til glóðarinnar innan 200 mílna efnahagslögsögu Íslands. Þar eru olíulindir til að selja og fiskur til að moka í SÍS og Sölumiðstöðina.

Gegn þessari stefnu stóðu annars vegar ríki,sem lítin eða engan aðgang hafa að sjó. Þau vilja aðild að auðsöfnun úr hafinu.

Hins vegar voru ein 60-70 ríki þriðja heimsins með alþýðulýðveldið Kína í broddi fylkingar. Baráttumál þeirra er óskorað vald strandríkis yfir auðlindum innan 200 mílna og yfirráð yfir siglingum - m.ö.o. landhelgi allt að 200 mílum. Í þessari kröfu er fólgið stóráhlaup á veldi heimsvaldastefnunnar og miklir möguleikar fyrir alþýðu hvers ríkis að koma í veg fyrir aukna rányrkju auðvalds í eigin landi og jafnvel þvinga fram friðunaraðgerðir,sé átakið samstillt. Íslensk alþýða verður að gera þessa kröfu að sinni og taka upp baráttu gegn skollaleik Geirs Hallgrímssonar og Alþýðubandalagsins í stuðningi þeirra við risaveldin.

30 ÁR FRÁ STRÍÐSLOKUM

# SIGUR OG ÓSIGUR

Nú eru liðin 3o ár frá því að herir bandamanna sigruðu endan lega fasistaheri Þýzkalands. Fasisminn er hvorki verk stríðsóðra sjúklinga af gerð Hitlers né ´eðlilegt andsvar´´við kommúnismanum. Fasisminn er baráttuform auðvaldsafla, sem atvinnurekendastéttin grípur til þegar völdum hennar er alvarlega ógnað. Í Þýzkalandi, Japan og Ítalíu voru allir auðhringar, hergagnaframleiðendur og yfirstéttaherforingjar beinir eða óbeinir stuðningsmenn stjórnmálaflokka fasista. Með skírskotun til þjóðernishyggju, loforða um ´´verndun´´ smáframleiðslu og til ótta alþýðu við atvinnuleysi tókst fasistum að virkja margan alþýðumanninn til stuðnings. Aðeins verkalýðsstéttin var nær einhlýtur og svarinn andstæðingur yfirgangsstefnu fasistanna. Hvarvetna barðist verkalýður, sósíalistar og kommúnistar í broddi fylkingar, gegn árásum fasistaherjanna. Höfuðvígi sósíalismans var í Sovétríkjum þessa tíma. Sovétmönnum tókst að skipulegga töluverða hergagnaframleiðslu og stofna Rauða herinn meðan á ´vopnahléinu´við Hitlers Þýzkalandi stóð. Undir styrkri forystu J.V. Stalins áttu Sovétherir og sovésk alþýða svo stærstan þátt allra í að mola niður stríðsvél fasista með dyggilegri hjálp kínverskrar alþýðu í styrjöldinni við Japan Sovétmenn mistu um 25 miljónir fallnar. Annars staðar lét alþýða og frjálslyndir borgarar ekki af baráttunni í eigin löndum uns fasistar féllu. Í einu Evrópulandi tókst alþýðunni að hreinsa land sitt af eigin rammleik - Albaníu Alls þessa minnumst við er 3o ár eru liðin frá stríðslokum. En stríðshættan er ekki liðin hjá. Stórveldin, Bandaríkin og Sovétríkin vígbúast af kappi og hafa bæði tekið upp svipaða yfirgangsstefnu og Hitlersþýzkalands, t.d.Bandaríkin í Víetnam og Sovétríkin í Tékkóslovakíu. Eingasamtök kommúnista (m-l) minna á að alþýða heimsins á ekkert annað svar við stríðshættu og yfirgangi en baráttu - baráttu fyrir pólitísku og efnalegu sjálfstæði landa sinna pólitíska baráttu gegn heimsvaldastefnunni og loks vopnaða þjóðfrelsisbaráttu. Allt tal um ´´friðsamlega þróun´´, ´minnkandi spennu´´ er blekking ein, auðvald og stríð er eitt og hið sama. Eik (m-l) tekur afstöðu gegn blekkingarsamkomu af því tagi sem haldin var í Háskólabíói á dögunum. Sovéskt afturhald þegir um eigin óþokkabrögð og reynir að upphefja sig með því að benda á sigra alþýðunnar sem það undirokar nú í Sovétríkjunum. - Sigra sem hinir sönnu bolsévikkar tóku þátt í ásamt Stalín. En um Stalín er ekki sagt eitt einasta orð. Um Hitlersættaðar kenningar Brésnefs um ´takmarkað sjálfstæði landa´´ (sbr.A-Evrópu) er ekki rætt. Aðeins hjalað um ´´ frið´´. Í stéttabaráttunni skiptast á sigur og ósigur. Auðvaldið er á undanhaldi. Sigurinn yfir fasistum var langþráður. Og sigrum bandarískra og sovézkra heimsvaldasinna síðustu ár verður að snúaupp í sigur alþýðunnar. Varanlegur friður fæst aðeins með útrýmingu auðvalds og afturhalds, það hefur alþýða Indókína sannað okkur.



Undir forystu kommúnista sigraði Rauði herinn herji nasista. Nú treður her nýj Zaranna í Kreml frelsið í Tékkóslóvakíu undir járnhæl sínum. Mongólska alþýðulýðveldið er algert leppríki sósíalheimsvaldasinnanna í Kreml. Hvenær stefnir Brésneff skriðdrekunu víðar?

## Union Carbide

Öll skipulögð barátta gegn byggingu málmblendiverksmiðju Union Carbide í Hvalfirði lognaðist út af eftir útifundinn, sem haldinn var á Lækjartorgi. Er það mikil skömm fyrir alla andstæðinga þessa verksmiðjurieksturs.

Ástæðan fyrir þessu var fyrst og fremst skemmdarverkastarfsemi Fylkingarinnar, sem barðist gegn öllu framsæknu starfi innan Samstarfsnefndarinnar gegn Union Carbide. Einnig er um að kenna linkind annarra aðila nefndarinnar að losa sig ekki við Fylkinguna og hafa frekar samstarf við heiðarlegt Alþýðubandalagsfólk.

Nú eru í undirbúningi samningar um álver í Eyjafirði.. Alþýða landsins verður að skipuleggja baráttusamtök gegn þeim áformum og nota sér reynsluna af mistökum Samstarfsnefndarinnar gegn Union Carbide. Stöðva verður ásælni erlends auðvalds á Íslandi og eigi það að takast, verður að brjóta á bak aftur þau niðurrifsöfl, sem Fylkingin er fulltrúi fyrir. Minnumst þess, að alls staðar, þar sem trotskistar hafa komið nálægt sjálfstæðisbaráttu þjóða, hafa gerðir þeirra verið til ills eins. Besta dæmið um þetta er hlutverk þeirra í þjóðfrelsisbaráttu Víetnama, eða eins og Ho Chi Minh orðaði það:"Trotskistar eru eitur í beinum sérhverrar byltingarhreyfingar".

## Heimsvaldastefnan

Heimsvaldastefnan er ekki einungis hugtak, sem framsæknir aðilar festa við erlenda árásarseggi og erlenda ásælni.

Um er að ræða ákveðið þróunarstig auðvaldsins, þegar auðhringar og einokun eru orðin ríkjandi í einu landi eins og t.d. Stóra-Bretlandi eða Bandaríkjunum. Þá hefst kapphlaupið um markaði, hráefni og landrúmi, samtímis því sem peningavaldið innanlands sameinast í bönkum, stórfyrirtækjum og ríkisvaldinu.

Við þekkjum bandaríska heimvaldastefnu í Indókína og ósigur hennar.

Við þekkjum danska heimsvaldastefnu í Færeyjum og á Grænlandi

Og hvernig er ástandið í Sovétríkjunum? Hver eru völd verkalýðs og alþýðu þar? Innrásin í Tékkóslóvakíu, einokun í indverskum iðnaði, okurlánastarfsemi í þróunarlöndunum, sala úreltra vopna, arðrán á sérhæfðum iðnaði Austur-Evrópu, uppsetning erlendra verksmiðja innanlands og hernaðaruppbygging Sovétríkjanna í <u>öllum</u> heimshlutum, eru ekki einkenni sósíalísks ríkis, eða gallaðs verkalýðsríkis, heldur ríkisauðvaldsins.

Við þekkjum því orðið heimsvaldastefnu Sovétríkjanna líka.




Enn má svo ekki gleyma, að samþjöppun banka, stórfyrirtækja og ríkisbákns á Íslandi hefir líka náð því stigi, að íslensk fyrirtæki arðræna erlendan verkalýð í Bandaríkjunum, Skotlandi, Lúxemborg, Nígeríu og víðar. Íslenskt auðvald einokar loftflutninga til Hong Kong og hluta fiskmarkaðs í heiminum og er því heimsvaldasinnað þótt veikt sé.

Þetta þýðir þó ekki, að erlend heimsvaldaásælni sé ekki fyrir hendi á Íslandi, þvert á móti. Stóru heimsvaldaríkin eru sterkust.

Vera lansins í Nató, ásælni EBE-landa í fiskimið, afstaða Sovétríkjanna til landhelginnar, flotaæfingar víða flotaæfingar við landsteina og erlend stórfyrirtæki á borð við Alusuisse og Union Carbide eru dæmi um þetta.

muni sameiginlega með íslensku eða erlendu stórauðvaldi.

Hún berst gegn erlendri ásælni með því að verja pólitískt og efnalegt sjálfstæði landsins, sem er heimsveldum fjötur um fót og íslenskt auðvald fórnar fyrir sinn hag. Hún verður að styðja þriðja heiminn með útfærslu landhelginnar í 200 mílur. Hún berst gegn Nató og styður alþýðu Tékkóslóvakíu.

við bak stríðandi alþýðu Indókína - því óvinir hennar eru vorir óvinir.

Alla þessa þætti baráttunnar gegn heimsvaldastefnu í öllum hennar myndum verður að margefla, um leið og hefja þarf baráttu gegn arðráni íslensks auðvalds á erlendum stéttarbræðrum vinnandi alþýðu. Heimsvaldastefnunni verður aðeins útrýmt með útrýmingu auðvaldsins.

---

TIL VERKAKVENNA

frh.af bls. 12.

= Dagvinnulaun verkafólks nægja ekki til framfærslu og því hlýtur það að vera lágmarkskrafa við gerð kjarasamninga að fólk geti lifað af dagvinnulaunum sínum,þannig að einhver tími sé til handa verkafólki til að sinna áhugamálum sínum og fræðast um stöðu sína og afla sé aukinnar menntunar. Konur verða fyrst og fremst fyrir barðinu á þessu ófremdarástandi í launamálum verkafólks því þær vinna oftast nær tvöfaldan vinnudag.

= Ráðstefnan telur sjálfsagt að allar konur fái 3ja mánaða fæðingarorlof á launum og mótmælir því harðlega að sjóðum verkafólks svo sem Atvinnuleysistryggingasjóði sé ætlað að standa fyrir slíkum greiðslum.

= Ráðstefnan bendir á það hróplega óréttlæti sem ríkir í lífeyrissjóðsmálum landsmanna,þar sem allir lífeyrissjóðir eru óverðtryggðir nema lífeyrissjóðir opinberra starfsmanna.

= Ráðstefnan bendir einnig á að endurskoða verði byggingu íbúðarhúsnæðis á félagslegum grundvelli, auka hana og endurskipuleggja.

Helstu niðurstöður varðandi skólamál voru eftirfarandi:

= Meistarakerfið útilokar marga frá iðnnámi,ekki síst konur og því ber að flýta afnámi meistarakerfissins

ins og jafnframt að hraða skipulagningu og eflingu verknámsskóla.

= Ráðstefnan leggur áherslu á mikilvægi fullorðinsfræðslu en bendir jafnframt á að hún nýtist tæpelga þeim sen

tæpelga þeim sem neyðist til að vinna meira en 8 stunda vinnudag.

Margt fleira var samþykkt og áskoranir sendar til forystu ASÍ varðandi fræðslumál og menningarmál launafólks. Ljóst er að nauðsynlegt er að halda slíkar ráðstefnur út um and til að kanna betur hið raunverulega ástand,sem ríkir á hverjum stað í málefnum hinna lægstlaunuðu.

---

1.MAÍ Akureyri

frh.af bls.11.

aðgerðirnar í Reykjavík,þar sem KSML og FBS völdu bæði kost sérhyggju og einangrunar en AB valdi fúafen stéttasamvinnunnar.

Það væri betra ef baráttusinnar annarstaðar færu að dæmi félaga sinna hér á Aky

sinna hér á Akureyri.

(Fréttaritari Akureyri)



LESIÐ

BARÁTTULEIÐ ALÞÝÐUNNAR

- stefnugrundvöll EIK(m-l)



# K.G. svarað

Í 5.tbl. Stéttabaráttunnar ritar K.G. grein um EIK(m-l) skv. fyrirsögn. Fjallar hún aðallega um KSML, þrátt fyrir nafnið. Nokkrar fullyrðingar K.G. þarfnast athugasemda, mjög fáorðra.

1. Aðeins lítill hluti félaga EIK(m-l) var áður í Fylkingunni, ekki "sem næst öll" samtökin.

2. EIK(m-l) hefir rekið leshringi, átt þátt í að skipuleggja og reka baráttusamtök á Akureyri, starfað í Víetnamnefndinni, samstarfsnefnd gegn Union Carbide, haldið opna fundi o.s.frv. Pólitík EIK(m-l) eru því ekki "pappírsgögnin ein".

3. Enginn félagi í EIK(m-l) hefir haldið því fram á prenti eða annars staðar, að hann álíti "uppgjör KSML við einangrunarsinna...vera fyrir áhrif sín". Uppgjörið við KSML(b) varð sumarið ´74.

4. Samtök, sem telja sig vera marx-lenínísk, kommúnísk o.s.frv., þurfa ekki að vera það, ef pólitík þeirra er röng í höfuðatriðum. K.G. heldur vonandi ekki, að EIK(m-l) telji KSML kommúnísk samtök, þó þau segist vera það, eða gagnrýnilaust. Þess vegna getur K.G. ekki ásakað EIK(m-l) fyrir að "afneita KSML og vilja ekki sameinast KSML". Við höfum a.m.k. fjórum sinnum boðið samvinnu og unnið saman a.m.k. tvisvar. Barátta og eining í skoðanaskiptum og starfi auðveldar framþróun réttrar stefnu.

5. EIK(m-l) hafna ekki byltingarsinnuðu forystuhlutverki verkalýðsins í baráttunni. Í "Baráttuleið alþýðunnar" - stefnuplaggi voru - er fjallað um þetta hlutverk á þrem síðum, 41-43. Flestir smáborgarar, millihópar og hálföreigar eru allt bandamenn verkalýðsins. Í málum eins og t.d. eyðingu byggðalaga geta einstaka kapítalistar átt þarna hlut að máli. "Stétt gegn stétt" skilgreinir ranglega hverjir eru vinir og hverjir óvinir verkalýðsins. "Vinnandi alþýða gegn einokunarauðvaldi" gerir það réttilega. Þetta vígorð afneitar ekki verkalýðnum sem meginafli byltingarbaráttunnar. Ef K.G. hefði nennt að birta meira úr ræðu Brésneffs, hefði orðið augljóst, að Kremlverjinn er að tala um friðsamlega, þingræðislega "byltingu" í samvinnu við krata. Varla dugar K.G. lítil tilvitnun í Brésneff til að "sanna" að EIK(m-l) séu "nútíma endurskoðunarsinnasamtök"?

Hins vegar mætti spyrja, hvers vegna samherjar vorir Kínverjar, sem eru einarðir andstæðingar Kremlverja, hafi bróðurleg samskipti við þær bræðrahreyfingar EIK(m-l) á Norðurlöndum, sem hafa sömu kenningar um þjóðfélagsandstæður í sínum löndum?

Og hvers vegna æskja KSML samskipta við sænska Kommúnistaflokkinn, úr því að hann heldur fram sömu "endurskoðunarstefnu" og EIK(m-l)?

6. Í öllu útgáfuefni EIK(m-l) er spjótum beint að auðhyggju Sovétríkjanna og heimsvaldastefnu þeirra. K.G. veit fullvel, að EIK(m-l) stóðu fast á því, að krafa eins og "Sovétríkin burt úr Tékkóslóvakíu" væri höfð með í aðgerðum 1. maí - og fékk því framgengt í viðræðum við samtök, sem ekki hafa baráttu gegn sósíalheimsvaldastefnu á stefnuskrá. Úr því að K.G. leyfir sér það hetjubragð að vitna í ummæli "einhvers" í EIK(m-l) til stuðnings fullyrðingunni um, að EIK(m-l) vilji ekki berjast gegn Kremlverjum - vitnum við í bréf K.G. til EIK(m-l) frá 28.4.´75: "Álit okkar (miðstjórnar KSML) er, að EIK(m-l) séu harðir andstæðingar heimsvaldastefnunnar og því bjóðum við ykkur velkomin í Rauðan framvörð 1975".

K.G. er í miðstjórn KSML og á ekki að brjóta félagsagann.

EIK(m-l) álítur grein K.G. ekki vera annað en fljótfærnisbragð manns, sem veit gagnrýni EIK(m-l) á KSML vera rétta. Við lítum ekki á greinina sem afstöðu KSML.




## Nýtt Bókaforlag:

# OKTÓBER FORLAGIÐ

Október-forlagið er nýstofnað forlag til útgáfu á sósíalískum fræðsluritum og alþýðubókmenntum. Út eru komin eftirtalin rit:
1) Baráttuleið alþýðunnar - almenn pólitísk baráttulína EIK(m-l).
2) Ályktanir og samþykktir stofnþings EIK(m-l) í janúar 1975.
3) Samþykktir ráðstefnu norrænna flokka og flokksbyggingarsamtaka marx-lenínista.

Á næstunni kemur út fangelsisdagbók Ho Chi Minh. Enn fremur eru væntanlegir bæklingar um
1) klofninginn í heimshreyfingunni, Sovétríkin og Kína
2) frekari stéttagreiningu á Íslandi og um fjármálafáveldið
3) um vinstri hentistefnuna.

Kynnið ykkur útgáfuefni forlagsins.

ÚTGÁFUEFNI OKTÓBER-FORLAGSINS

ER TIL SÖLU Í:

REYKJAVÍK: BÓKSALA STÚDENTA, FÉLAGSHEIMILI STÚDENTA
KEFLAVIK: BÓKABÚÐ KEFLAVÍKUR
AKUREYRI: BÓKABÚÐIN BREKKUGÖTU
SÚGANDAFJÖRÐUR: BÓKABÚÐ JÓNS S JÓNASSONAR

OKTÓBER FORLAGIÐ pósthólf 541, Akureyri.

## Námsstarf EIK(m-l)

Þekking á stéttabaráttunni og réttri baráttuaðferð er nauðsynleg til árangursríks starfs. EIK(m-l) líta á fræðslustarf sem eitt af höfuðverkefnum sínum. Samtökin starfrækja námshringa þar sem m.a. er rætt um:
- íslenskt þjóðfélag og stéttskiptingu
- hlutverk stéttafélaganna og núverandi ástand
- frelsisbaráttu erlendrar alþýðu
- baráttuleið alþýðunnar.

Takið þátt í þessu starfi!

Hafið samband í síma 16753.

## Verkalýðsblaðið

Verkalýðsblaðið, málgagn EIK(m-l) kemur út á sex vikna fresti og flytur greinar og fréttir úr stéttabaráttunni hér heima og erlendis. Blaðið er ungt og ber þess merki. Við hvetjum lesendur til að senda athugasemdir og gagnrýni á blaðið.

Blaðið kostar 50 krónur í lausasölu og 250 krónur í fastri áskrift.

Styðjið blaðið - gerist áskrifendur!

